VID

# HEIMFÖR

HERRA STUD. THEOL.

# Þ. HELGASONAR

TIL

ÍSLANDS

1830.

Prentad hjá bókþrykkjara S. L. MØLLER.

Lag: *Dig, elskte Frankrig, mit Farvel jeg byder &c.*

Þitt fardu vel Sælundi, kjæri bródir!
þú býdur nú, lángt fyrr enn hugdum vèr,
og fýsir aptur Fedra á gömlu slódir,
úr frama, glans, og vinsæld allra hèr;
ordtækid sannast: ei má sköpum fresta,
Egill og Kjartan bádir sýndu þad,
heim lysti þá, þó hefdu vyrdíng mesta,
heidur og völd, á þeim erlendum stad. :|:

Þó gledisvip á sýnum brǽdra eigir,
sem minnast vid þig kannskè hinnsta sinn,
mörgum er hulinn myrkur brjóst' í tregi
þó mót þèr brosi hírlig brá og kinn;
hvör undirtekur ei í sama hljódi:
ávalt þá gatstu, þín var hjálp mèr föl,
mèr varstu vinur, mèr ágætur bródir,
mitt var yndæli þín hèr stutt samdvöl. :|:

Sá sem ad festi á hvelfíng stjörnur heidar,
húmid og ljósid fordum skyldi ad,
og urtum lætur bíast merkur breidar,
sem baud ad verdi, og svo skedi þad;
hann láti þig nú leida blída vinda
þó leiki um skutinn Ægisdætur bjart,
ad sjáir brátt þá silfurhvítu tinda,
svasligrar módur gamalt elliskart. :|:

Skrautligu hvar úr skýa veldi sunnu
skodadi augad saklaust fyrsta sinn,
og þægir úngdóms þánkar gladt upprunnu,
þerradi módir barndóms grát af kinn;
ár hvört.þar lídur eins og sumardagur,
æsku hvör hlutur kær, helzt gledja má,
ad ydju manns þar mestur verdur hagur,
mætast er þar ad loka sinni brá. :|:

Bergmáli heima' á brims og fjalla ströndum,
bródir! þitt hrós og ástsæld líkt og hèr!
Hamíngjan blíd þig beri sèr á höndum
og blessun krýni hvad þú starfa fer;
fèlagar, vinir! fyllum staupin, gódir,
— med fyrirmælum sem hvörs býdur þel —
mèr varstu vinur, mèr ágætur bródir,
mundum hans skál, já Þorsteinn, fardu vel! :|: